# Stutt agrip
um̃
# Itaulu
# Bufiar
i
# Haga
**med litlum Vidbæter um̃**
## Hrossa = Slatur
og þess nytseme, samanteked til reynslu og nota þeim slikt girnast.

Selst óinbundid 2. skl. arkid.

Þryckt ad Hrappsey i því nýa kongel. priviligerada bókþryckerie, 1776. af E. Hoff.

# Itala Bufiaar i Haga.

Lbr. 4. C. Enn qvicfe ſkulo þeir telia í haga ſo at þeir hyse ei nytra, þó at fæRa ſe oc ſe þó ſkipat til fulls. Þar ſkulo menn ítaulo búþiár haþa í haga, er ſkynſaumum maunnum líkaz þær nætr þleire, er þe gengr í annars land. Þar ſkal telia þrevett navt vid kú, en iij. vetrgaumul. eige ſkal kálþa telia. Roſſ þrevett vid kyr ij. edr ellra. Tvævett vid eina kú edr yngra. eige ſkal þyl telia. Geitur v. vid kú. Gamler ſavder x. vid kú. Lømb xx. vid kú. eige ſkal ſvín í land telia ne haþa.

So hliódar þeſſe grein epter þeim gódu gaumlu Kálfſkins bókum; þvi ad í þeim þriktu Logbókum er hún mieg afbaukud. Enn þeſſe regla, ſeger P. Logmadr Widalín, er giord fyrer ſumarbeit í búſiár hogum edr afrettar løndum; enn vantar hina, ſem ung hroſſ og

 havſt=

havstfolold skamte til hæfes t vetrar haga: þá reglu setr Grágás Lbr. þ. 44. Cap: Þar skal telia vid tvævett roſſ oc elldra tvau roſſ vetrgaumul, enn fyl iiij, enn annat se sem i bvland. Lb. 15. Enge beiKa skal fleira se hafa (*addunt plurimi Codices* umm sumarit) enn landit maa vel upphallda.

Þad má eg heyra nærre dagsdaglega, sovel nær sem fiær, ad penfingur giore so líted gagn, fyrer þvi ad ofsett se i londin; ad hestarnir ete þad allt upp, sem kindur og kýr ege ad eta; ad allt gánge i ortrod, sem menn so kalla, og ad oll Sinan se upprifen úr landinu á vorin, þá kýrnar ege ut ad gánga, med odru þessháttar. Enn mest er þesse umqvortun fyrer nágronnum og sambýlesmonnum: Hafe einn nágranne meir enn annar af peninge, edr einn sambylesmadur, þá gengur þesse klogun; úr hvorre stundum, verdur fullkomen óvild og deilur.

Eg

Eg hefe til forna vered af somu trú, ihugande hlutinn lftt. Enn sosem mer í morgum hlutum er hætt vid ad villaz af almenníngs trú, þá mer þiker hún ei svara til reynslunnar, so er þad eins sked mig í þessum hlut.

Veit eg þad ad víst má offetia i eitt land: enn hvort þvi se nú svarande, þar peníngur er miklu færre, enn hann var til forna, jafnvel í vorum minnum; ad eg tale ei um̃ í Jonsbókar tíd, þad dreg eg i efa.

Nú er spursmálid, nær **maatu-lega** se sett í hagan? Hvor sem mer þad kende, þeim hinum sama vil eg kunna þock og góð ord, þvi eg medkenne í sannleika, ad eg veit þad ei siálfur. Enn nóger kannske verde til ad kenna mer þad, og kannske hlæe, ad eg skule ei vita hvad Logbók seger: **ad ei se nytra þo fara se.** Eg vil nú láta mier skiliaz þetta um̃ stund, og fara í husmensku med tvær kyr ad einu stórbýle, hvar ein hiáleigan leggz i eyde; Enn húsbóndinn leiger mer land þeirrar somu hiáleigu til hagabeitar fyrer kyr mínar,

og eg tilſkil ad eckert annad ſkule i hiá-
leigu landinu gánga: og þetta ſemium
vid med ockur. Nú grær hiáleigu-túnid,
og eg læt kýr mínar bíta þad og þær
miólka dável. Eina nótt koma 12. kýr
húsbónda míns med mínum 2. í hiá-
leigutúnid og bíta þad, og epterá miól-
ka mínar ei eins vel og ádur. Strax ſege
eg, ad nú ſe offett af 2. kúm í hiálei-
gulandid fyrer þeſſa einu nótt; þvi nu ha-
fa kýr mínar ei eins gott á túninu og
ádur, og eg ſege ſatt, eg ſkal ſýna ydur
fotuna ſem ádur var rennande heim bo-
rin af ſtodlinum; enn nú er á hana þrid-
iúngsbord. Er þad ei líkt og ef einhvor
ſegde, ad offett være á hey þá ei má
ſo tradgefa til Fardaga ad hálfeted hey-
ed ſe teked úr báſunum; edur offett á mat
af þvi ad matur er ei ſo nógur ad hel-
mínge af honum mege ſpilla, og eta ei-
naſta feitt ket og kræſíngar.

Þer hlæged ad þeſſu dæme, og ſe-
gid ad eg hafe einaſta átt ad ſetia á hiá-
leigutúnid og þá ſtande allt heima. Ney
eg hete rett! Menn giora almennelega
avngvann mun á neinum parte landſins;
Enn tokum annad dæme. Eiñ

Einn bónde er slíkur trasse edur afmenne, sem þvi verr marger eru, ad hañ sækez epter þeirre jordu hvar túnid einsamallt duger honum til slægna; enn eingiarnar beiter hann kúm sínum, og þarf ei lángt ad leita ad dæmum til þess, og ofan í kavpid hallda bændur med þessum mañe og segia hann life ei med omegd sína, ef hann misse af todunne.*) Nú valda þvi



*) Þetta hygg eg aller, sem athuga vilia, mune sanna, og þetta er nú ein orsøkin, hvarfyrer iarder her í lande eru margar komnar í nídslu og svívirding. Her baggar þá ei einasta ómenskan; heldur inngróner almenníngs hleypedómar: og þvi verr ad eg ætla þad se orden ofalgengin trú medal fólks, edur þó heldr trúarvilla; ad þad gilde einu hvarnen med iardirnar er fared, og ad þad se saklavst, þó þad iafnvel koste þann sem epter kemr hartnær lífed med konu og børnum; þvi sá sem kiæme til slíkrar iardar og vilde fara ad rækta hana, hann yrde ad slá fyrst í stad allt úr sinu; og þá mætte hann brúka

bæde þreyngsle i sveitinne, sem og hitt, ad egande jardarinnar vill ei ad slægiur á jordunne fare so árlega i órækt, og þarsyrer er ødrum manne byggt nockud af hiá hinum; verda þeir þá meira ad nýta enn rúnid og þessvegna veria eingiarnar og fyrer þvi miólka kýrnar þess fyrra ábúandans midur. Strax seger hann ad offett se í landit, og hann seger satt epter almennings dóme, enn ei epter mínum dóme.

Enn ver vilium fylgia fyrst þessum almennings dóme og siá hvad úr þvi verdur. Aller vita ad þar sem litell málnyta gengur í landinu þar velur húnúr, þad sem best er, og sækiz þángad sem landit er kiarna best, so sem þad er gott ad skilia; þvi þad er epter allra skepna nátturu. Enn ef peníngurinn vex í landinu hrockur ei þetta góda úrval fyrer hann, og þá er strax sagt ad offett se í landit. Um Messu daga og þad so nockud

mestu varúd og líka forstand og vitsmune, ef hann ætte ei ad drepa skepnur sínar á sinu heye.

nockud framepter ellter peníngur blómstrinn og þad sem honum er munntamaz: se nú peníngur so mikell ad þesse blómstur hrockve ei til, og giøre þar fyrer midur gagn; þá er strax sagt, ad offett se í landit. Sege eg ei þetta satt? þad verda aller ad játa.

Eg lære þarfyrer ei af þessare grein Logbókar, **hvad mæatulega se sett í land.** Þvi þad gengur koll af kolle og troppugáng ad peníngur giører epter þvi gagn, sem hann á gott; Mest ef hann fær nóg med þvi ad ganga allt sumarid í túninu, og þarnæst í engiunum og so velia úr landinu þad sem skárst er, so af þessu verdur eckert víst, hvad **mæatulega** se isett.

Ennnú hefe eg ei heyrt almúga so rángsnúenn, ad ei medkenne þad, ad slægiur skemez þá þær komaz í sinu og mosa og eru ei uppunnar á tveimur edur þremur árum; þvi ei eru þær alltíd árlega slægar. Hvad er þad nu sem skemmer slægiurnar? þad er sina og Mose. Af hvoriu kemur sinan og mosinn? af þvi grasid, er ei sleged edur bited. Þegar

 slæg-

slægiurnar eru ordnar skemdar af sinu og mosa, munu þær þá fódra eins mikenn peníng? þær fódra þvi sídur eins mikenn peníng, ad sinuheyid sýkur og drepur peníngin. Þegar landid er allt komed í sinu og mosa vegna þess mikla forstands bænda, sem trúa þvi ad þá se best ad vered og peningur giore mest gagn, þá hann er sem fæstur, er þá offett í þetta fordiarfada land, þó peníngurinn verde ad bíta lett med gódu? Svare menn ef menn geta.

Nú vil eg ridia veg til þess ad sýna epter minne meiníng, nær nóg se í land sett og læra þad af gavngu peníngs í eyium, og taka til dæmes eina ey, sem ber um veturinn í medal vetre 40. fiár.

I þessa ey set eg nú fyrsta áred, epter ad hún var sinulavs ecke utan 30. fiár: Strax er þar á odru áre komen sina; so ad ef eg set þá þángad 40. fiár, gengur þad illa, edur kannske drepz sumt. Her af fylger ad þess færra sem eg set í eyna, ár af áre, þess meire kemur í hana sinan og þess minna ber hún.

Menn

Meñ svara ad penkngurinn ríse upp sinuna. Þad giorer hann víst ecke, á medan hann hefur annad sinulaðst ad bíta. Enn þá hann fer ad bíta sinuna þá svíkur hún penkngiñ. Þetta vitna lifande dæme. Þegar Þorsteinn Gudbrandsson á Skarde kom þángad fyrst, voru eyialond þar so sinu gróinn, ad hún var eins og þófe, so ad penkngur, sem þar geck barde nidur med ríódrum og róturde þar, enn let allt hitt rúid standa kiurt. Þad þótte skríted uppátæke, þá Þorsteiñ sette þángad allt hvad feck til ad hafa burt þessa sinu; enn hann giorde alldeiles rett. Og sídan hygg eg ad eyiarnar seu i gódu lage. Þad være betur ad adrer vildu slíkt forstand af honum læra, bæde til lands og eyia.

Eg má her geta nockud Kideyar, hvar eg hefe komed og sed í henne sinu og þó enn meire mosa. Menn munu þó svara, ad hún se slegin árlega, og ad þar gánge hestar árlega. Enn sinan og mosiñ sýna hitt, ad sú ey hefur lángvaranlega ei vered uppunnin. Er þad og gott ad skilia, ad þá hestar á vordogum

koma

koma þadan so feiter, sem þeir hafe vered alder, þá hefur eingin nauð þríst þeim til að yria sinuna og mosañ, sem þó er sú mesta nytseme, sem menn hafa af vetrargaungu hesta.*) Hvar uñ eg kynne einhvorntíma meira að skrifa.

Enn eg dæme so, að hvar sem eg se mikla sinu í að þar seu eyiarnar skemdar, og so eru allar þær bygdar eyiar, sem eg hefe íkomed her á Breidafirde.

Þar

*) Dæme her uppá hefer eg nýtt: Á næstlidnum vetre helt eg heima hiá mer med ásetninge aullum hestum mínum, hiá því sem eg var vanr, og var sá vetr í hardara lage, og í iardleysunum heldu þeir sig her uppá fialle í einum brokflóa, sem alldrei í manna minnum hefr slegenn vered, og þenkte eg að þeir munde hafa þar litla biørg og þó sidr góda: enn þar var audru nær; því þá til þeirra var komed, voru þar híngað og þángað stórer sinu flecker sem þeir høfdu uppríseð, enn þeir bitu græna mosañ, sem var nidr í rótinne og høfduz vel við. Hvada gagn giørde sinan her?

Þar hvert á móte: Þar sem engar eru sinulitlar, Þar eru Þær fullsettar, og so er Þá ei í Þeim annad fyrer peníngin ad bíta enn nýtt gras, og Þær hinar sem eru allra bestar til utegángs; Þvi sinan svíkur allann peníng.

Her til kann einhvor ad svara, ad Þad se med beitarland eins og vída med slægiuland, ad Þad sprette ei so, ad Þad verde slegad utan úr sinu annad og Þridia hvort ár: og eins se Þad med beitarlandid, ad skule Þad fleyta peníng, Þá mege ei meira setia i Þad, enn ad peníngurinn gete bited úr sinu. Her til svarast:

1.) Ad Þad er miog olíkt ad minne egin og almenníngs radn um slægiu og beitarland. Þad hefe eg reynt og sed, ad i sama stad verdur ei sleged utan annad og Þridia hvort ár. Hitt hefer eg alldrei sed, ad Þar hafe ei gras komed, sem peníngur hefur bited og ágenged, nema hann hafe bited úr sinu og mosa, og hefer eg sed, ad ogso Þad land, hefur Þvi meira batnad og grase vaxed, sem peníngur hefur Þad meira bited.

Enn eg hefe enn nú alldrei séd þar grasbrest, sem peníngur hefur sífellt bited; hvar uppá eg mun sídar dæme færa. Enn þeim sem þetta þikker eggvar og ódæde, þá bid eg ad nefna fyrer mer eitthvort þad pláts, sem hafe mist allann grasvöxt vid peníngsbit.

2.) Gefur peníngur sig ei ad sinunne og bítur hana ei utan tilneyddur af húngre og sinan svíkur peníngin. Peníngurinn á sumardag yr þar helldur ofani, sem synulavst er, þó þar siáez valla strá uppúr, helldur enn hann gefe sig ad sinunne. Enn um vetrarbeit hesta mun eg sídar tala.

3.) Er þad enn nú ei so víst ad slægiuland verde ei brúkad utan annadhvert og þridia hvort ár. Þad er reyndur hlutur ad á næsta áre epter, þar sem slegin er úr sina sprettur líted, so ei er slægt fyrr enn sina er aptur í komin. Enn hvad vilia menn giora med þá sinu hún svíkur peníngin. Enn ef menn vildu kosta tíma til ad slá þetta

pláts hid sama, ár epter ár, þó epterkekian se litel, hvornin fer þá? þad verdur allsæmeleg árleg slægia. Eg tala af egin reynslu. Og allra þeirra bænda reinsla vitnar þad sama, sem ei hafa meire eingiar enn so, ad þeir vinna þær upp árlega. Og þesser hiner somu fá eins miked gott hey og hiner sem slá úr sinunne; og ofani kavpid sokkur sinan þó hún se slegen. Eg er þvi á þeirre meiningu ad beit til lands og eyia se þar best sem minst er sina.

Þad sem eg hefe nú ad undanfornu um eyiar talad, nefnel. ad mikel sina í þeim se víst merke til, ad þær seu skemdar; og ad þvi minne peníng sem menn setia i þær, þess meira vaxe í þeim sinan og þess meira skemez þær; ad þær þvert á móte seu þvi betre til beitar, sem minne er sina i þeim, þad vil eg nú heimfæra til landjardarinnar og allt hid sama um hana segiá.

Eg kann þvi ei annad enn hrósa uppátæke Olafs Jonssonar í Arney, med ad byggia þar hiáleigu serdeiles ef hann

helde

helde þvi affram og bigde þær lángtum fleire. Hann giæte ad vlſu med þvi móte giort Arney, ſo litel hún er, betre enn nockra 60. hundrada jørd á lande. Lenge má iſetia til þeſſ ad peníngur hafe ei full hold og hams. Sú bleſſun ſem Gud lagde yfer jordina í fyrſtu hún er ennnú í henne óþriótande, þegar menn vilia ſig med erfide og forſtande af henne næra. Enn mer ſýnez ad ſú ſtædſta bølvun ſem gud lýſte yfer henne í ſyndafallinu ſe meſt í þvi fólginn ad menn vilia ei koſta ervide og forſtande uppá hana; menn vilia ad hún ſkule ervideſlavſt ávoxt bera eins og þad ſkede fyrer falled: Og úthaginn heimter þó ei annad ervide, enn ad hañ ſe bitin og ſlegin, og med þvi móte þrýtur hann alldrei gras.

Til ſumarbeitar kemur þad ei uppá þad, ad graſed ligge i leg: þar týner peníngurinn ei utan blómſtrin og ſlafrar ofanaf. Nei! dagleg reynſla kenner mønnum þad ødruvís. Her á Dalnum hiá mer er víſt pláts, ſem heiter Lángedalur, þar er litel ſina i, enn þar ſez miked líted gras: þar vilia þó kýrnar helſt vera

og eru þar æfenlega á hvorium vege mest allt sumarid, og giora eins gagn eins og þó þær seu þar, sem meira gras sýnez. Þetta getur þó ei af ødru orsakaz enn þvi ad þeim þiker gras þar sætara: og grased getur ei vered þar sætara enn annarstadar af ødru enn þvi ad þad er þar meira bited. Eg hefe alldrei rided, so um sydra nesid á Qvennahóle ad eg hafe ei sed þad fullt af kúm og hestum, og mer er sagt, ad kýr miólke best þá þær þar seu, og þó er þad so snøggt eins og þad se svided med járne. Þesse dæme trúe eg nærre þvi mege finna á hvorre jordu.

Þetta gengur og nátturlega til: því betra sem heyid er þvi betur miólkar kyren; hún linfull edur med hálfre giøf af góđre todu miólkar miklubetur enn trodsfull med tradgiof af missiofnu útheye. Allt eins um grasid. Af miúku blautu og sætu grase, sem kýrinn þarf ad nasla epter giorer hún miklu betur gagn, enn þó hún slafre gras þad sem í leg liggur. Aller bændur verda samdóma um þad, ad gras, sem úr ser se vaxed se ei til miól-

kur, þad er og nátturlegt, sem her verdur ei so skilianlega útmálad fyrer alþýdu: þad er nóg ad reynslann kenner þetta. Hitt kenner og reynslann og aller verda samdóma um̃ þad, ad há á túnum se miøg vandþurkud og þurfe lángtum meire þurk enn siálf tadan. Af hvoriu mun þetta koma utan af þvi ad háinn er krapta meire og feitare. Þarfyrer er þad venia á Sunnmøre í Norege ad gefa nýbærum̃ kúm hána, ad þær komez í sem mesta miólk. Liúke menn nú augunum̃ upp og hugskots siónum og so munu þeir skilia ad þetta lága gras, sem þar grær, hvar peníngurinn sífellt bítur, þad er ei annad enn háinn. Nú er grasid æsinlega miúkara, blautara og safa meira medann þad er ad gróa heldur enn þá þad er fullvaxed. Þetta vita aller. Enn háinn vex alt sumarid og fram̃ á haust til þess frost koma. Þó madur vilde til reynslu taka eina þúfu í túninu og slá hana á hvorium̃ vikufreste allt sumarid frá Fardøgum til Mikels-messu, þá grær húm jafnótt allt sumarid ef grasid náer alldrei ad blomstra. Eins er þad, þar

sem

sem penínguriun sífellt bítur allt sumarid, þar græt sífellt allt sumarid, og epter þessare há, sem sífellt græt, sækez peníngurinn mest, jafnvel saudurinn, sem þó elskar fialllendid, og þar af giorer peníngurinn mest gagn. Þar fyrer er þad þarfleysa ad veria utheyes slægiur framan af sumre og allt til Messudagá edr nockud lengr. Ad sauunu voru fornmenn miog gras-sárer, þeim var og meire vorkun enn oss vegna peníngs fiølda; þvi med þvi, ad á Magnusar Kóngs daugum hefur epter aullum líkindum vered helmínge fleira fólk í landinu edr meir so hefr þá og vered helmínge fleire peníngr: þó skipa laudslog vor ei bændum ad flytia í sel fyrrenn 8. vikur eru af sumre og þann þridia mánud í sumrinu kaulludu þeir gaumlu Selmánud; hann byriaz á mánudag í níundu viku sumars*)

B 2 Eg

*) Þó þad se ei þessu efne miked vidkomande um fólks fiølda í Íslande, bæde nú og til forna, vil

Eg þikez so hafa med rokum sýnt og þreifanlegre hvors dags reynslu ad þad er

---

vil eg til fródleiks setia þad, sem sá lærde Prófastr Síra Þorsteinn Petursson hefur þar um sagt í þvi margfróda skrife, sem hann hefr giort um Sagnaleſtr, þar seger hañ §. 46. „ Þá (þegar Gissr Biskup let tel„ ia bændr her) var land vort so vel mañ„ ad af Skattbændum (so kalla eg þá er þing„ farar kavpe áttu ad gegna, og hafa víst „ vered miklu efna betre enn vorer Skatt„ bændr nú seger hann) ad þeir tolduz 38 „ hundrud manna; enn hiner voru ótalder, „ sem eige áttu þingfarar-kavpe ad gegna, um „ allt land. Þetta voru tólfræd hundrud, „ so sem þá var venia ad telia: had giorer „ 4560 epter nýrre reikninge. Enn nu „ 1753 voru Skattbændr her hiá oss ecke ne„ ma 2100: má so berlega siá og þreifa á „ þvi, hvad stór fæckun fólksins og formeg„ unarinnar hefr giorz sídan í landinu, sem „ er meira enn til helminga; og hefr þó „ enn formegunin fallid stórum, sídan 1753; „ þvi

er ei sinan, ecke vídáttann, já ecke mik=



„ Þvi hardindin gengu mest yfer þar epter=é
„ hvorium ad deydu úr óseite her um 2500
„ manna. Nú sídan 1760 hefr Fiár=
„ Pestin mest eydt vorre avdlegd og uppeld=
„ es medslum, sem ómögulegt er ad reikna.
„ Þad veit eg, ad þeir Prestar, sem giördu
„ kaupstadar=reikning uppá 40. hundrud fiska
„ fyrer 5. árum, giördu nú í sumar 1770.
„ valla 5. hundrud fiska reikning; þvi tíun=
„ da upphæd almenníngs er gengen til grun=
„ na, og fólk getr varla edr ecke halded vid
„ lífinu. Jarda bækurnar sýna ad lands=
„ skulder af fastagotsinu her í lande Anno
„ 1696 hlupu til 33218 Rixdlr. enn árid
„ 1759 ecke meira enn til 24273 Rdlr. Af
„ þessu Jarda=gotse tilheyrer Kónginum her
„ um fimte partur: Hans bændatala. fyrer
„ árid 1700 var til samans 1819. enn
„ árid 1759 alleinasta 1218: og þess vissa
„ Inntekt 1766 var 640 Rdlr. minne, enn
„ árid 1717. Manntalid í landinu er
„ nú ecke so alldeiles víst: þvi þó þad være
„ grein=

ed gras; heldur gott, feitt og kroftugt gras,

„ greinelega teked epter hárre befalíng 1769;
„ samt hefr eg ecke enn kunnad ad fá þess
„ upphæd. Flester og vitraster menn hafa
„ vered þeirrar meiníngar, ad fyrer Stóru-
„ bólu 1707 hafe her vered yfer 100000
„ sáler; enn í heñe hafe falled 11000: og
„ þegar fólkid var talid epter hana Anno
„ 1709, þá hafe þad vered rúmt 90000:
„ sídan hefur þad alldrei nád sér. Ver
„ tókum her manntal í Hóla-Stifte, nú í
„ minne embættes tíd 1762, og voru her
„ þá rúmt 12000 sáler; enn í Skálholts-
„ Stifte, epter þvi, sem eg feck undervíſun
„ um af mínum gømlum skóla-bródr Síra Gud-
„ munde Høgnasyne í Vestmanna-eyium, hnís-
„ num og sæmelega lærdum manne, var fól-
„ kid her um 32845, sem giører til samans
„ ecke fullar 45000 sáler; meira enn, hel-
„ mínge færra, enn epter Stóru-bólu." Af
þessu, sem þesse lærde madr skrifar, má nærre
fara um Qvikfenad í landinu, og má nock-
urnvegen óhult, álykta ad hann mune fara
epter

gras, Jafnvel þó minna se, sem gioret beitina góda. Eg þore því ad segia ad sá sem ætte Kidey og hefde efne vit og framqvæmd til ad koma henne sem best í lag, giæte giort hana mörgum portum betre enn hún er. Og Arney giæte haft 2 edur 3 hiáleigur og miklu meire peníng, ef hún være fullsett og komin í lag. Enn þar til þarf tíma lengd, vit og atburde ad koma spilltum löndum í lag: og vid því vil eg líted hræra her; enn sídar ef Gud lofar, skrifa meira um þad, því þad er lángt umtals mál.

Eñ nú vil eg segia mína meiníng um þad, nær land se skípat til fulls,

 sem

---

epter fólks fiöldanum, og ad hann mune vera því færre, helldr enn hann var 1280 þá Magnús Kóngr Lagabæter, sende lögbók vora inn med Jóne Lögmanne, sem fólkid epter ádrsögdu er nú færra enn þad var þá: ad eg ei tale um þá avdn, sem fiár-pestin hefr giört. Er þá avdsed hve miklu meire orsök fornmenn hafa haft til ad spara sumar beit, heldr enn ver nú hausum

sem løgbók seger ad vera ege. Nefnel. Þá penfngur er so settur í landet, ad hann nockurnvegen uppvinnur grasid, so ad ei vex í þvi sina ɔ: tvíærd, þá kalla eg landid skipad til fulls, og **þar mætulega skipad** þegar penfngur er hvorke fleire ne færre enn so ad hvorke vex sinan ad ráde enda se þá ónýtare ef fleire er, og vinne þó upp grasid. Hvor sem nú getur sýnt mer nockra jord her á Strøndunum ad ei se sina i, hann sege eg hafe tullsett í, og eg trúe þvi, ad hann hafe þá bestu beit; enn þad getur einginn: allt landid er fullt med sinu, fyrer utan túnin og nockud af engiunum. Penfngurin giører ætíd minna og minna gagn, þvi sinan vex meir og meir; þvi þad er eins og eg hefe sagt: Penfngur á sumardag gefur sig ei ad sinunne, hann ellter blómstrin og toppana og yr þar ofaní sem sinulavst er; og hvar vill so þetta lenda um síder? Aller qvarta yfer þvi ad jardirnar gánge úr ser, og vita ad segia frá, hvad þeir hafe heyrt af elldre mønnum, hvorsu sú og sú jord hafe til forna vered miklu betre.

Um̃ þetta kenna menn fiallſkridum, Hardindum og Gude; enn eingin þecker edur vill þeckia ſína egin ſkuld: þar þad eru þó ábúendurner ſiálfer ſem eru hin helſta og meſta orſok, og þeir eru þad ſiálfer, ſem meſt ſpilla bæde túne og engium og úthaga; enn hvorke fiallſkridur ne óáran eins og láted er. Enn med þvi londin eru nú ſo gagnſpillt af ſinu og órækt hvort er þá medalid til ad koma þeim aptur i lag?

Medolin kunna ad vera fleire enn eitt og þar á medal ad brenna úr ſinuna; eñ bæde er ad fæſter kunna vel til þeſſ, enda er þad medal þvíad eins brúkande ad eckert annad ſe betra til.

Þad er ſtok innbirlíng og hiátrú fólks, ad hvor madur heldur nærre þvi ad heſtar ſpille haganum: þar þó eingin hlutur meira batar hagann enn heſtarnir, ſerdeiles á vetrardag. Sinuna, ſem eingen ſkepna vill vidlíta á ſumrin, hana rífa þeir upp á veturnar og iafnvel moſan med. Enn fólk er ſo innteked af þeſſare fordæmdu hiátrú, ad þad lætur eins illa ef nágranna heſturinn kemur í landid, og rífur

ur þar nockra ſinu i ſig, alteins og heyid være bored úr toptinne, edur maturinn úr búrinu, og vilia miklu heldur ad lan-did ſpillez af ſinu, enn ad unna odrum ſinunnar, fyrer bærelegt verd; ſo ad heſta gánga á vetur er her ofurdýr medan ſinan er ſo mikel til, og þó er þad enn verra og fram̃ úr ollum ſiarſka ſudur í Dolum.

Menn ſegia almennelega ad heſturin̄ rótnæge jordina; ſkafe rótina; yrie og kúge, og ſo fram̃veges, ſem menn koma ordum ad.

Enn hvad ſkadar þad þó heſturinn rótnæge, þó hann ſkafe, þó hann yrie? Eg hefe aldrei en̄ú ſed edur vitad land ſkemmaz af þvi; gete nockur ſannferdug-lega ſýnt mer þær ſkemder, þá vil eg þegia. Enn þad ſkal einginn geta, hvor-ſu ſem heſturinn nagar og ſkefur rótina ár frá áre, þá er hún ei einaſta jafn-góð heldur og betre epter, eg tala nú eginlega um úthaga, þó má þad og gilda um ſlægiuland og oræktartún.

Þetta mun fleſtum þikia oggvar og fráleit heimſka, enn eg ſkal leitaz vid ad-

færa

færa so sterkar líkur til máls míns ad á mege þreifa.

Þad er ei án orsaka, þó þeir gomlu hafe egnad jordunne nockurt líf, edur lifande kraft; þvi hún er í morgum hlutum lík lifande skepnunne. Ef madur klipper einn savd um midiann vetur, edur þó seinna se, þá liggur ei annad fyrer honum enn krokna, hafe hann ei húsaskiólid.

Enn þó meñ klippe savdinn strax um Mikelsmessu, og so aptur med Adventu og so um midiañ vetur og so framveges, þá lifer hann þó med útegánge enn hinn ecke. Hvílíkar oggvar þóttu þad ei her um plátz, þá eg fyrst byriade ad fara med geldneyte eins og gaddhesta? Hvorsu oft mátte eg heyra, ad navtid være ei skapad til utegángs? Ad slík medferd være ógudleg og myskunarlavs, med odru þess kyns? Nú eru menn komner á adra trú. Sigurdur Steingrimsson hefur minne þiáníng og tilfinníng ad gánga hálfnakinn mille bæia í frostum og kofuldum; heldur enn einn sællífur kakalovns sælkiere ad gánga velklæddur dagsláttu lengd, í sama vedre. Siáum her

hvad

hvad vanið giorer, og hve heimsker slík er dómar eru, þá menn fordæma það, sem þeir eru ei vaner við frá barndóme. Aller vita að skepnan vill gánga úr hárum í sama mund árinu epter, sem hún hefur giort fyrer, og að hárvöxt á henne má venia epter tímanum. Aller trúa því að skegg á manninum vaxe þess meir, sem það se optar rakað, og so er það i fleira: þess meira sem genged er á iliaskinninu þess þickra verdur það. Eg hefe þekt mann, sem lagde af að járna hest sinn, sem þó átte að gánga á møl og draga þúngar birdar: Hesturinn vard hóflltell og sárfættur í fyrstunne; enn það beid ei lenge, til þess að hann vandez so vid, að hans hófar þoldu eins og þeir væru járnader. Og hvad skal mer að upptelia fleira þess slags, sem dagleg dæme kenna so margfaldlega.

Það sama sem eg hefe nú sagt um lifande skepnurnar og einginn getur neitað, það hið sama gilder um jordina. Þorkell í Purkey kende mer fyrstur manna, að gras mætte venia eins og ull á saudum, og að það spritte þess fyrr

árinu epter ad iafnre vedráttu, og med somu medferd, sem þad være fyrr sleged árinu fyrer: Og þetta hafa mer reynz idel sanninde. Þá sinan er fyrst risen af jordunne, bregdur henne vid eins og skepnunne, þó þad se nockud med odru móte. Skepnan tekur sig ei aptur fyrrenn hún hefur fenged ull, og jordin ei fyrr enn hún hefr fenged sinu; enn se nú skepnan sívanin vid ad missa ullina, so vex þess meire ull á henne allt eins og skegg á manne: og se eins fared med jordina og hún árlega biten so vex þess meira gras á henne. Oll sú spilling þarfyrer sem menn egna hestabitinu, er einagin onnur enn sú, ad jordunne bregdur nýtt vid, þá hún er biten úr sinu, nema þad verde smámsaman: og þess meir, sem hún er biten þess meir ræktaz hún; so ad eg vilde miklu heldur rækta tilgúns rótnagadann og urinn úthaga, heldurenn ræktarlaust tún; þvi hestanaged ræktar jordina enn spiller í aongvann máta. Ef míner lesendur vissu adplontur sem uppvaxa af jordunne yxu þess betur og giæfe þess fleire greiner, sem þær eru betur og giætelegar skornar,

nar, þá kynne þeim heldur um grasid ad skiliaz; enn einginn jardar ávøxtur þoler eins ad láta skera sig eins og grasid: þad gefur þvi fleire blød og ánga útúr ser, sem þad er meira skored, og eg er snart komin á þá trú, ad grasid verde frióssamara af skepnunnar bite, heldurenn heyslætte; þvi eginlega var grasid í fyrstu til þess af Gude á jordina gefed, ad þad skylde bítaz. Og hvad áhrærer hestabit, þá vil eg miklu heldurad hesturinn bíte tún mitt i gróandann, sem hefur úngar gódar tounur, heldur enn kýr edur savdur, þvi þav draga kólfinn og slíta, so þar sprettur ei eins sama ár; hesturinn þar á móte klipper grasid, se hann vel teñtur. So hvad tún áhrærer, ver eg þad meir þess vegna, ad eg vil ei koma hestum á ad gánga á þvi og spora þad og spana utan úr þúfunum, heldurenn ad eg vite vist ad þad skemmez af hesta bíte. Þó allt hvad eg hefe sagt um hesta bit er egenlega ad skilia um úthaga, enn um tún er allt annad, þar sem rækt er í

þeim

þeim, sem eg hefe nú reynt á þvi sticke, sem eg hafde sád ádr korne i.

Og so ad menn vite ad þetta seu meira enn grillur mínar einar, so vil eg stadfesta þad med dæmum, sem enginn getur móte haft. Þad er so alkunnugt, hvorsu Stadarhóls Odde i Savrbæ er underlagdur af hestabite, so þad ser valla í hann, hvorke seint ne snemma; og þar gánga kýrnar allt sumarid frá kríngumliggiande bæum. Enn fyrer ollu þessu er þar gras so nóg i hvorin áre sem er, ad þá bændum bregdaz slæur heima, fara þeir þángad og hafa uppgrip. Umlided sumar var meste grasbrestur á útenge, og þá eg reid um Stadarhóls Odda blædde mer í avgum þad gras, sem þeir hofdu frá gengid, þvi hvorge hafde eg hast þad so gott í mínu lande. Annad dæmid er Holltaland i Savrbæ, litlu stærra enn Melaland, þar gánga árlega á vetur her um 100 hestar edur kannske fleire, og þarfyrerutan á sumrinn marger hestar fyrerutan búsmala og þó þrýtur þar aldrei gras. Seinasta ár=

áred, sem eg var á Melum gengu þar yfer 40 hestar, meir enn 100 fiár og nockur geldneyte í landinu, og aldrei hefur Melaland betur sprotted enn árinu epter, og so það sumar sem Jón Ketilsson vetrinum fyrer tók þángad flesta hestana, þá iardlavst var í Savrbæ.

Talad hefer eg vid greindann og giætinn mann, Jón Vermundsson i Tialdanese, sem hefr sagt mer ad í blett einum, hvar hestar rifu upp sinurubb í húngurs neyd og hofdu alldrei viliad ádr ofaní líta; þar hafe sídan vared lágt og þett gott gras, sem þeir síkellt sæke epter. Nágranne minn Jón Jónsson á Hvalgrofum, segez eitt sinn hafa sleged þar úti landinu nockud brokrubb; enn sídan hafe peníngr viliad bíta í þeim blett, sem ádr stód þar ei vid. Siáum her hvad sinan gagnar! Og þó almenníngr fordæme mína meiníng, so finn eg þó einstaka bónda í bland sem er mer samdóma.

Endahnút vil eg rída á þetta med þvi ad segia: ad einn Svenskur Herramadur ad nafne Boge hefur fyrer nockrum

rum árum skrifad litenn bækling um bú=skapar reglur, hvari hann kenner, ad land ræktez vid þad, ad þad bítez og ad magurt enge verde alldrei ofbíted. Og fyrer þann bækling gaf Kóngurinn honum nockur hundrud dale Silfurmint.

Enn þetta er forgefens ad predika fyrer fólke, þvi skilz þad ei, og hvorge se eg lækningar von vid þessum rángsnúnum dómum og þverúd, bæde í þessu og odru utan frá prentsmidiunne í Hrappsey.

Þá eg hafde skrifad þetta fyrer þremr árum hefr þad sídan nockrum giætnum og vitrum monnum fyrer sióner komed, hvorier þarum hafa ymeslega dæmt. Hugsvekiur eins þeirra hefer eg fenged skriflegar, er hann mer í sumu samdóma, enn þó meira gagnstædr. Fyrst giører hañ grein á þvi hvad rett se kaullud Sína, nefnelega, sú sem er eins árs gaumul, se hún elldre kallar hann þad Sinubrwk og medkenner ad þad spille þvi þad kefie grasid og svíke penínginn; enn ársgomul sina meinar hann ad se iordunne til á=burdar og skiols fyrer kulda og bruna.

Eg hefer egenlega i undangángande skrife meint tvíærda sinu og elldre. enn ef einærd sina þienar iordunne til áburdar og skióls, þá miklu framar sinu brúk það sem er tvíært edr elldra, hvort þo þesse góde madr fordæmer. Og munar her þvi ei utan á meira edur minna, ad þvi elldre sein sinan er þvi skadlegre er hun enn sú einærda sina kemz þá med þessu móte ei heldr lastlaust af. „ Einærda sinu „ heldr hann framveges goda til ad fæda „ útegángs peníng snemma vetrar, enn „ fylla seint, inntil Krossmessu á vorum, „ og um það leite heldr hann hentugasta „ tíd ad eydeleggia hana, þó med odru „ medale enn penínga bite, þvi þetta for„ diarfar þá meir iardsvord og nýgreſe „ enn sinan siálf.“ Þessa hefer eg ei var orded utan á túnum enn alldrei i úthaga; edur hvad á peníngurinn ad bíta utan það sem hefur gróed sumrinu fyrer? ei gefr hann sig ad gaumlu sinunne. Enn eg kalla ei Sinu utan það gras, sem hvorke hefur vered bited edr sleged frá Fardogum til vetrnátta árinn epter, og so kallar almenníngr það; þvi ef allt visnad

gras

gras skyldeheita Sina, þá fær og háin á túnum þetta nafn, þvi hún visnar eins og annad gras, se túnid ei þvi betr ræktad: enn slíkt sinn nafn er epter almenníngs tale ei so egenlegt.

Um Beit talar þesse góde madr þañ veg: „ Eg hygg hana alltíd lakare fyr-„ er land og gras, heldrenn nær sleged „ er skickanlega; þvi þad slegna gras „ hreint hoggved, sprettr betr á epter „ lángt frañ á sumar; enn þad bitna „ tredz meira, kiæfez, rickez, eydeleggz „ meira edr minna epter ásigkomulage." Þetta lætr miked líklega, enn þó er þad ei samstemma vid reynsluna, sem hefr sýnt þad bæde mer og añdrum ad íafnvel edr betr sprettr gras epter peníngs bit heldreñ slátt, og sama reynez útlendskum, sem siá má af þeim ádr nefnda svenska Boga, og sá Enske sem skrifad hefr a compleat Body of Husbandry og eg hefe á þýdsku, seger um engiar og úthaga: ad einn forstandigr búmadr ymist sláe edr beite hvorutveggia. Ei þore eg ad segia ad eg skili hvornen þad kemr til ad úthagen batne vid beitina; þo má eg þar um segia

mína meiníng. Þad kenna grasa-meistarar ad alment gras hafe eins og mörg aunnur þess og annars kyns, lide og smá ærle á rótinne, sem gefe af ser ný strá og nýtt gras. Nú er þad alkunnugt ad þad er under iardarinnar situ og frióseme komed hvad morgum stráum rótin uppskýtr, þad siá menn á kornsæde ad þar sem þad í magre iord ei ber utan eina edr tvær stengr, þar ber þad í feitre iord 7. 8. edr fleire stengr. Midstráin á grasinu eru stædst og vænst, sídustráin minne og vesælle. Seu nú öll stráin burt skorin, vaxa midstráin aptr fliótast, þvi til þeirra liggia þær stædstu frióssemes ædarnar. Enn seu midstráen einasta burtskorin, verda sídustráin ennnú fliótare ad draga friógunina til sín, þvi þeirra blød eru óskert edr minna skert. Seu þad stóru midstráin uppdregen med kólfinum, þá kunna þav ad sonnu út ad deyia, enn sídustráin koma þá í þeirra stad, so einkis í saknar. Ad þetta se nú so í sannleika getr hvoreinn reynt og skodad. Triávide er hætt vid þvi ad vatned hlavpe í sárid og feige stofn og rót þá stíft er,

edr broted; enn um gras er þad allt an-
nad sem dagleg reynsla kenner. Nú
mun eingenn neita þvi ad serhvort ávaxt-
arkyn og iafnvel stundum tegund hafe sinn
aldur: uppvaxtar aldr grassins setr ádr-
nefndr Boge i 5. ár, fullordens aldr i 25.
ár, epter 30, seger hann þvi fare aptr.
Nú er þad reynt á sumu vidarkyne ad þá
þad gamla tred, sem aptr er fared ad fa-
ra, er afhoggved, vaxa margar plontr
uppaf rótinne allt í kríng og gróa ágiæta
vel, þvi þær draga til sín allann þann
frióvgunar vokva sem þad gamla burthogg-
na tre lifde á. Eins ætla eg ad þvi se
vared um grasid: þegar peníngr bítr þad
má þad ad líkindum ráda ad þad sterkustu
stráinn verda mest fyrer átokunum og slit-
na þvi helst; enn í þeirra stad uppvaxa
morg onnur úng og friósom allt í kríng.
Hafe eg nú rett áhitt ad útmála hlutin og
er hann þá avdskilin; enn hvornin sem
þvi er vared, þá sýner þó reynslan, sem eg
hefe ádr leidt dæme til, ad úthage skem-
mez ei af beitinne. Og hvad er vert ad
vera her so margordr um, nátturunnar
ásigkomulag og nátturunnar Herra tilskip-

 un

un tekur af allann efa, sem til þess i ondverdu skapade grasid á iordina ad þad skylde bítaz af skepnunum: munde sá alhage meistare þá tilætla ad Beitin skylde skemma þad, sem hann hafde skapad so harla vel? Hvad þad áhrærer ad peníngr trode grasid til skemda, þá hefer eg aldrei þess var orded utan þar sem akurland er aptr útlagt til einges edr túns, af þvi ad gras-svordurinn er ei orden þar fullfastr. Þad hefer eg sed ad þar sem peníngr liggur, eru bólin epter; enn á tveggia edr þriggia dægra freste hefer eg ei til þeirra sed, grasid retter sig aptr. Eg held þvi alla beit bæde seint og snemma skadlavsa og opt til bata þar sem grassvordr er orden so fastr ad peníngr sporar hann ei, sem eg hefe alldrei var vid orded i úthogum. Þó meina eg ei hermed þad einge sem sláz á. Líka medkenne eg þad ad so má í land setia ad í ortrod gánge; enn þvi er óvída ad gegna nú sem stendr.

**Ortrod** kallar þesse góde madr þad „ nær so margr peníngr-gengr í landinu „ ad hann hefr ei hold og gefr ei miólk „ ept-

„ epter landslage og giædum á sumrum,
„ nema gánge í túne edr engium, edr
„ orbíte so úthaga ad heima hestar og
„ fe verde þess vegna í náme í lakare edr
„ medal vetre." Þetta er nú ad vísu
satt, enn munu menn her af læra hvad
mátulega se ísett? Eg læt kýr mínar ligg-
ia inne allt sumarid, þær miólka eins vél
og hinar sem úte liggia og hafa meira frel-
se til ad velia úr haganum, og so eru þó
mínar kýr eins feitar ef ei feitare á havst-
en. Eg hefe opt epter þvi teked ad smá
bændur sem eiga einn edr tvo brúkunar
hesta og þarfyrer verda ad hafa þá i hap-
te allt sumarid, þvi þeir þurfa ad brúka
þá nær þvi daglega, ad þesser þeirra hest-
ar med þessare kreppu eru eins feiter og
hestar sem á fiollum gánga siálfala allt
sumarid. J fyrra vetr, sem var þó
einn med þeim hardare voru tvo lomb lát-
in i einn lítenn hólma uppá líf og dauda
þvi hann var snoggr. Þá eg þángad
kom um Krossmessu i vore var, sá eg
þau ad sonnu lifande, en þenkte ad þau
munde þó horud. Þá eg í hólman kom
sáz þar ei stíngande strá, hañ var allr

eins og slett siol, var her þá ei offett i? enn þá eg vilde lomb þesse taka og handleika voru þav so sæl og ólm, ad þav hefdu fyrr hlavped í sióinn, enn ad þav hèfdu lofad ad ná ser. Er þá offett í þegar peníngr er so sæll. Eg fór ad athuga af hvoriu þesse lomb giætu so sæl vered, og fann ei annad enn grænann mosa, hann er og vída á lande, enn peníngr nær honum ei á vetrardag fyrer sinunne utan í húngrs neyd, sem eg hefe ádr sært dæme til. Þad skal þvi miked til ad segia, nær peníngr gengr i **Ortrod;** þvi af tilfærdum rokum og dæmum er þad avdsed, ad peníngr á sumardag getr mist bæde af nyt og holdum, þar sem þó er ei hálfsett í hagana, nefnel. þar! sem peníngrinn hefr annadhvort ofmiked siálfræde, edur má ei velia úr þad besta: þar ámóte kann peníngr ad vera fullsæll, þar sem hann sþnez ad gánga i Ortrod. Mer hefur þvi alldrei tiád ad marka **Jtölu í haga** og **Ortrod** epter þrifum og notum peníngsins; heldr hefer eg orded ad skoda landid, hvornin þad være til beitar.

Medal

Medalhófid er vandrakad og kann mer þad sama ad verda, sem morgum audrum, ad þó þeir hafe rett og satt mál med ad fara, þá gánga þeir þó ofvidt; þvi allt má ýkia: er þad og aull von ad mer í þessu efne kunne yfer ad siáz; þvi eg hefer opt undrad mig yfer á hvad litlu plátse peníngr getr lifad og lifad vel: þad má einatt siá i iardleysum á vetrum og þar sem skepnur eru tiódradar á sumrum.

Mer liggr þvi vid ad trúa, ad ef búskapar hætter vorer og fólksfiolde leyfde ad hýsa allann peníng á nóttunne enn sitia ad honum um daga allt sumared út, giætu flestar iarder fleitt 3. 4. 5 iá 8. 9. og 10. bændum, sem nú segiaz navmlega fleita einum, ef iordin være rett ræktud, og beitin rett brúkud. Eg giæte avdveldlega leidz til ad trúa þvi, ad ef bæde beitar-og slægiu-land være afgirdt í smá reite og peníngnum þar í beitt til skiptes, ad gripurinn þyrfte ei meira í þad hædsta enn tvofaldt so stórt pláts til beitar á sumre, sem þarf til ad heyia fyrer honum. Nú á hálfr annar eyres vollr, þad eru 1350 ferskeytter fadmar, ad gefa af ser kýr-

fódrid, þad eru 30. gilder tødubands klifiar epter gaumlum Búaløgum, og þad eru avngvar øggvar; þvi eg veit af egen ravn ad á iafnſtórum velle má fá meira, ef hann er rett ræktadr og medhøndladr. Þrír eyres veller gefa þá hey hauda tveimr kúm og være þeir ſundrgirdter i þriá reite og þeim tveimr kúm beitt ſinn daginn í hvorium reitnum, þá munde eg þvi trúad geta, ad þær hefdu nóga og góda beit allt ſumarid, og ad havſtnóttum væru þeir þrír eyres veller ſo tadder epter þeirra gavngu, ad med gódum þrifnade mundu miklu meira gras af ſer gefa árinu epter, og ad þad munde fara árlega í voxt. Um̃ grasvoxt til ſlægna er mer reyndr hlutr, enn þetta hefer eg ei ennnú haft mannſkap til ad reyna. Betr ad einhvor, ſem hefde efne og fram̃qvæmd vilde reyna þad ødrum til lærdóms og epterteſtar.

Enn hvad ſem um allt er þá er eg faſtr á þeirre meiníng ad **Sínan** ſkemme landid; ad miked mege í ſetiá þar til í **Ørtrød** gánge; ad peníngsbit bate meira enn ſkemme. Heruppá hefer

eg

eg smá rok og dæme leidt ad framanverdu; enn annad er stærra dæmed á Skagafirde, sem er ordlagdr um allt land fyrer hesta fiølda, og þar um er sión søgu ríkare. Þar er þó heyskapr hinn allra beste; sumar og vetrarbeit hin allra besta: hvad vilia menn nú her til segia? mun peníngs bitid skemma her iordina?

Eg hefe fært bæde rok og dæme til minnar meiníngar: þeir sem halda allt annad enn eg, og segia ad eg hafe rángt fyrer mer, þá bid eg ad færa, ei einasta rok heldr ogso dæme bæde á einstaka iordum og so heilum herodum til þess ad peníngs bit skemme iordina, eins og eg hefe fært þreifanleg dæme til ad þad skemmer ecke. Hallgerdr hádade Niál bónda fyrer þad, ad hann let aka skarne á hóla, so heimskulegt þótte þad í þá daga: nú þiker þad navdsynlegt. So kynne þad tilbera ad vorer epterkomendr halde þad gott ad peníngr vinne upp árlega nærre sanne sinnna þó almúge halde þad nú ódæde. Hugþótta roksemder hrockva her ecke, nema þær stadfestez med reyn=

reynslunne: ein edr onnur reynsla er ei heldr nóg; þar skal margfold reynsla til, ecke einasta á einne edr aññarre iord útaf fyrer sig, heldr og á heilum herodum. Vel kann þad nú ad vera ad mínar grillr hafe blindad mig: hvor er þad, sem rate so medal vegen ad hann eckert útaf skeike? enn hitt veit eg, ad allr fiolde fólks her í lande er so inntekenn af gomlum vana og hleype-dómum ad hann ei ser þad sanna edr þad sem betra er, þó þad se aldrei so vel útmálad, og menn þreifa á þvi af reynslunne; og skal nú so herum útalad ad sinne.



# Hestabit er hagaboot og Hrossa-Slatrid gagnsamlegt.

O! fortunatos nimium bona si sua norint
Agricolas - - - - - -






Editio II.


Prentad i Hrappey af E. G. Hoff
1776.

## Oeconomiske Tanker
til
højere Eftertanke
5. Part. 2. Cap.

Der har været de Tider i Verden, at man har beleet den Sandhed om Antipodes: Pave *Zacharias* satte stakkels Bisp *Virgilio* i Band, fordi han troede Antipodes, og *Galilæus Galilæi*, den i sin Tiid store Mathematicus maatte paa Pavens Ordre, (om han vilde bierge sit Liv) forsvære den Meening, som et Kietterie, at Jorden bevægedes, og dog gaae i evig Fængsel.

*Si quis nunc quærat, quo res hæc pertinet, illuc*
*Dum vitant stulti vitia, in contraria currunt.*

Hor. Serm. Lib. 1. Sat. 2.



# Um Hrossa=Slatur.



Sidan hestarnir fiolgudu aptur epter hardinden, er Þad nú almenneleg i mqvortun her vestanlands ad Þeir sen ordner ofmarger; ad Þeir sen búmanninum til mikels skada; ad Þeir bíte upp sumar=hagana frá málnytu peningnum, og ad Þeir ete hvor annann ihel á vetrinum. Her um hafa nockrer beded mig ad skrifa; enn hvad á eg ad skrifa? á eg ad segia ad menn skule drepa folodin iafnótt og Þav koma? Være Þad ei hid stædsta óÞacklæte vid Gud, ad eydeleggia so miskunarlavst og til avngra nota, so gagnsama skepnu, sem hesturinn er, allteins og menn skyldu giora

vid

vid úlfa og birne? Og værum ver ei ó-verduger innbyggendur af voru kiæra fod-urlande ef ver færum so illa med einn Þess hinn gagnsamasta ávoxt, sem tingaz og fiolgar án vors serlegs tilkostnadar, og nær því fyrer utan alla fyrerhofn? Edur á eg ad segia ad menn skule eta hestana? Þad voga eg ecke, þar af kynne ad orsakaz upphlavp, þar flester halda þad óleyfelegt, iá sumer trúarvillu og heidne ad eta hrossakiøt; so sem ravn gaf vitne í þeim seinustu hardindum, þá nockrer í húngursneyd átu hrossakiøt, voru sumer þeir Prestar, sem ei vildu taka þá saumu til altares utan þeir stæde openberar skripter. Sumer þóktuz ei þola vid fyrer fnik og ódavn af hrossætunum; og almennelega var þad sagt, ad þeir yrde lakare ílits eñ adrer menn. Enn þad være athugaverdt hvort her ei eins og i flestum audrum hlutum innsmeger ser þad sem Dansker kalla **Fordom** og Þýdsker **Vorurtheil** epter því latinska orde Præjudicium; enn eg á íslendsku vil kalla **hleypedoom**. Eñ med því ad þad, sem eg kalla hleypedóm hiá odrum, kañ ad vera hleypedomr hiá siálfum mer, so

ſo vil eg láta adra tala og innfæra þad ſem eg hefe her um leſed, ſo geta þeir, ſem fordæma hroſſakiøts átid ei reidʒ mer. Hiner ſem eg innfære munu ſig ſiálfer forſvara; enda munu hálflærdra og almúga dómar ei ſtórt hneckia þeirra nafne og virdíng.

Hinn fyrſta, ſo ſem þann helſta, vil eg nefna þann ſo kallada **Hamborgar Lækner** í þvi 108 ſtikke er eitt bref til hans frá einum, ſem kallar ſig Edax; hann talar ſo herum: „J
„ avſtur-álſunne eru þióder, ſem eta
„ hroſſa-kiøt og þyker þad bæde nærande og vel ſmackande. Sagt er og
„ ad vorer forfedur, þeir gomlu Celtar, hafe og eted þad ſama. J þad
„ minſta hlýtr þad ad vera allt eins
„ heilnæmt og uxakiøt. Hvarfyrer bídur óſſ þá vid þvi? Er ecke heſturinn
„ eitt af þeim hreinleguſtu og þockaleguſtu dýrum, ſem lifer einaſta á graſe af iørdunne. Hvor vill þar á móte
„ halda af ſvínunum ſem lifa ſo óhreinlega, og þó eru þaug almenníngs
„ fæda. Vilie menn ſegia, ad heſtar-

 „ ner

„ ner ſeu oſſ þarfare til brúkunar enn
„ til nidurlags, þá er þad eins um
„ navtpeníngin̄. (J ødrum løndum
„ eru navtinn brúkud til ad draga plóg
„ og vagna.) Kannſke ver tímum ei
„ ad eta heſtana af þvi þeir eru ſo
„ falleger? Ney. Ver etum þarfyrer
„ án allrar vægdar þá dægeleguſtu fug-
„ la og falleguſtu ſavde. J fám ord-
„ dum! Eckert annad enn epterleyfar
„ af gamalle hiátrú er einaſta orſok til
„ ad ver hofum vidbiód á hroſſakiete.
„ Þeir gaumlu Þýdſku hofdu eina hiá-
„ trú med heſta, hvarum Tacitus ſo
„ ſkrifar: „ þeir taka þeirra hneggian
„ fyrer þann viſſaſta ſpádóm. Þeir
„ uppala hvíta heſta í þeirra helgu ſkó-
„ gum, ſem eckert mega annad giora
„ enn geiſtlegt ervide, ſo ad þeir ei
„ vanhelgez. Þegar þeir vilia fara til
„ fretta, ſpenna þeir þeſſa heſta fyrer
„ ſin̄ afguds vagn, og Preſturinn edur
„ Kóngurinn gengur epter þeim, til
„ ad taka mark á þeirra hneggian. Al-
„ múgin̄, þeir megtugu og Preſtarner
„ ſiálfer taka á avngvu teikne ſo miked
„ mark

„ mark, sem á þessu. „ Saxo og
„ Cranß segia frá því um Rygana, sem
„ er eitt Vindiskt og Pommerskt fólk,
„ ad þeir hafe halded einn hvítann hest
„ heilagann, og ad þad hafe vered hal-
„ ded fyrer glæp ad slíta eitt hár úr hans
„ tagle. Presturinn einasta mátte ala
„ hann og rída honum. Enn fólkid trú-
„ de ad þess gud ride honum, þá hañ
„ dró út ad strída fyrer þad. Þeir gaum-
„ lu Donsku, Norsku og Svensku off-
„ rudu Odne árlega í alls folksins og
„ hofdíngianna vidurvist einum heste,
„ hvors blóde var stockt á alla vidverau-
„ de. Slátrid af honum var soded og
„ frambored í veislunne epter blótid og
„ var þad þá halded sú helsta og besta
„ kræsíng. Þegar þad fyrsta Christne-
„ bod kom til Islands, reiste sig sund-
„ urþicke mille þeirra umvendtu og óum-
„ vendtu so ad lá vid upphlavpe, enn þad
„ fridstilltez med því móte, ad fólkinu
„ var leyft ad blóta á lavn, eta hrossa-
„ kiot, og bera út born. Slík dæme
„ gefaz morg í þessara nordurlanda sog-
„ um. Snorre Sturlu son seger fra í

„ sinne Norsku kroniku, ad Hákon Kóng-
„ ur góde vard ad lída miked ofrike af
„ þegnum sínum fyrer því ad hann var
„ Christenn. Eitt sinn á einum hátíd-
„ ar dege þá hann openberlega sat til
„ bords, gengu nockrer af hans heidnu
„ undersátum ad honum og bádu hann
„ ad eta hrossakiøt; enn þá Kóngurinn
„ neitade því, bádu þeir hann ad drecka
„ nockud af sodinu; þetta vilde hann ei
„ heldur giora. Þeir logdu fyrer hann
„ eitt gott feitt stikke; enn þá þeir komu
„ avngvu til leidar, vard fólkid so upp-
„ æst ad honum lá vid lífsháska, hefde
„ ei Sigurdr Jarl stillt til fridar og med
„ sínum fortaulum fenged af Kónginum
„ ad bergia á nockru af hrossaslátrinu;
„ og sídan fór hvor heim til sín. Þad
„ var þarfyrer halded eitt kennemerke á
„ Christnum og Heidnum ad halda ser
„ frá hrossakiøts áte og ad eta þad, so
„ ad þad var mark halded á þessum tveim
„ trúarbrogdum. Einn Christenn Kongr
„ í Svíaríke ad nafne Ignon var af sín-
„ um heidnu þegnum í einu upphlaupe
„ afsettr og rekenn frá ríke; hvar á mote

„ þeir

„ þeir giørdu einn frænda hans ad Kónge,
„ sem lofade þeim ad taka upp aptr blót
„ og þesshattar stórhátíder. Og strax
„ epter ad hann var setstur á tróninn,
„ let hann setia hest á bordid, skifte hon=
„ um upp mille bordsitiendanna og stock-
„ te á þá blódinu; og undereins giørdu
„ aller Svenskar þad bert, ad þeir af=
„ sóru Christendóminn. Her af má dæ=
„ ma ad þeir fyrstu Christnebodarar høf-
„ du fulla orsøk til ad banna þessu fólke
„ hrossakiøts át, og ad þeir sem heldu sig
„ frá því gáfu þarmed til kinna ad þeir
„ hefdu teked vid Christne. Páve Gre=
„ gorius III. skrifade til Bonifacius, sem
„ var Postule þeirra Þýdsku, þannveg:
„ Þú hefur gefed mer til vitundar ad þar
„ eru nockrer medal þeirra, sem eta kiøt=
„ id bæde af tømdum og ótømdum hest=
„ um. Leyfed þeim þetta ei lengur, hei=
„ lage bróder! heldr hindred þad med øl-
„ lu mogulegu móte í Jesu Christo, og
„ uppálegged þeim hardar skrifter.“ Pá-
„ ve Zacharias ítrekade þessa saumu ski-
„ pun til Bonifacius, og bætte því vid,
„ ad hann ogso skylde banna þeim Þýd=

 „ sku

„ ſku ad eta hieraſlátur; enn þetta for-
„ bod átte ei lángann aldur. Þá þad
„ Chriſtnu trúarbragd um ſíder rótfeſt-
„ uz hiá öllu þeſſu fólke, giordu aller
„ ſer ſamvitſku af ad eta hroſſakiot, og
„ med þeſſu móte hofum ver fenged vid-
„ bióð á þeſſum ſkepnum, ad leggia oſſ
„ þær til fædu. Enn nú er epter ein
„ þúng ſpurníng þeſſe nefnelega: hvorer
„ meſt eru athlæges verder, hvort helld-
„ ur ver, ſem fyrer vorra forfedra hiá-
„ trú hofum vidbióð á hroſſaſlátre; eda
„ þeir í avſturálfunne ſem eta heſtakiot af
„ því þeim þiker þad hollt og ſmeckgott;
„ eda Gydíngar ſem af ſomu orſok hafa
„ vidbióð á ſvínsfleſke, eins og ver hof-
„ um á heſtakiote? J Jtalia er aſnakiot
„ eted; enn þad eru ei utan Tartanar,
„ Kalmuckar og adrer óchriſtner, ſem eta
„ hroſſakiot. Ver ſiálfer etum cervelat
„ pilſur, ſem ſagt er ad giordar ſeu af aſna-
„ kiote. Ef ver ættum nú ad leyſa úr
„ því hvarfyrer ver holdum aſnakiot æte-
„ legra enn hroſſakiot, ſo mundum ver
„ ſtrax verda varer vid at þetta allt er ei
„ annad eñ hleypedómar og heimſka.

„ Þad

„ Þad levitiſka logmál og Páve Zacha-
„ rias bannade ad eta hierakiot og ver
„ etum þeſſe dýr hiklavſt, ſem þó oft ha-
„ fa vidbiódſlega ſiúkdóma. Enn ef ver
„ komum til Englands og egum ad eta
„ kúnís kiot, þá ſtondum ver í efa um
„ hvort ver ſkulum giora þad edur ei,
„ þar þó þeſſe tvo dýr, kuniſinn og hie-
„ rinn, eru ſo lík hvort odru, ad þar er
„ eingen orſok til at eta þad eina enn
„ vœmaz vid hinu odru. Þeir Fronſku
„ eta poddur (Dan. Froe, Germ. Froſch.
„ lat. Rana) og oſſ býdur vid þeim af
„ því þær eru líkar túdſum (Dan. Skrub-
„ tudſe Germ. Króte lat. Bufo). Þar-
„ ámóte þikia oſſ álar gódur matur, ſem
„ þó eru ſo líker ormunum. Ver þor-
„ um ad eta þá med klóm utbúnu krab-
„ ba og þo eru þeir ſo óttaleger. J Si-
„ beria eta hvorke Rúſſar edur Heidíng-
„ iar þá og valla fœz af þeim ad ſnerta
„ ſo vidurſtyggelega ſkepnu. Þarámóte
„ eta Kalmúkar eins og morg villudýr
„ hrœen af því fe, ſem er davdt af ein-
„ hvorium ſiúkdóme; iá Kolbeinn ſeger
„ frá því um Hottentottarana ad þeir

 „ hal

„ halde soddan kiot heilnæmara heldur=
„ enn af hnífskornu fe. Svil og hrogn
„ úr fiskunum etum ver án alls vidbióds.
„ J Jakuzk eta þeir dyranna ótímabæra
„ burde og epterburde edur fylgiur óþveg-
„ nar. Enn er þó ecke hvorutveggia í
„ siálfu ser þad sama? og brúkum ver
„ ecke óboren; dýr til ad kridda vorar
„ suppur þá ver hofum meira vid. Snep-
„ panna (vissra fugla) skarn þiker oss ly-
„ stelegt. Villefólk etur dýranna garner
„ med þeim óhreinindum, sem þar í eru.
„ Einn rettur hiá Samojedum (Smá=
„ meyalands innbyggiurum) sem þeir kal-
„ la Tiito er ei annad enn tómer og
„ eldhúshángner hreinsdýra magar, hvor=
„ ia þeir eta hráa. Kinarar, Kalmuck=
„ ar, Samoyedar og þeir svortu á gull-
„ strondinne í Afrika eta hunda; þeir
„ eru til þess alder í Angóla og selder
„ openberlega á torgum. Einn stór feit-
„ ur hundur hefur þar stundum vered
„ seldur fyrer 22. þræla. Fyrer einn
„ medalmáta hund geta þeir Evropæisku
„ þræla kavpmenn alltíd fenged 2. þræla,
„ og þó reiknaz einn þræll fyrer 10. dú-
„ kata.

„ kata. Hvad er þad, sem er so vid-
„ bióðslegt á þessum dýrum? Er þad ei
„ af eintómum hleypedóm ad oss væmer
„ so vid þeim? Einn velefnadur Gydíng-
„ ur gefur þad besta hesta- edur uxa-kiot
„ fyrer eina feita rottu, afþví ad hún
„ smackar honum betur; af þeim er og
„ miked eted í Jamaika og Martiniqve.
„ J Afrika og Brasilia eru steiktar mýs
„ í eins miklu afhalde og úngar hænur;
„ og hvor þorer ad bevísa ad þesse smeck-
„ ur se falskur edur ónáttúrlegur. J
„ Italia eta menn oglu eda nodrukiot.
„ J Siam, Pegu, Brasilia giora þeir
„ þad sama vid hoggormakiot; því þeir
„ halda ad stórer ormar seu ei so eitrad-
„ er eins og smá nodrur; og þeir hafa
„ kannske rett í því. J Afrika og Ame-
„ rika eru þurkadar ferfætlur edur nod-
„ rur (Dan. Fiirbeen. Germ. Eidechs.
„ lat. Lacerta) etnar; og þeir Evropæi-
„ sku sem hafa smackad þennann mat,
„ segia samegenlega ad hann se miked
„ gódur. Þad er einn tómur hleype-
„ dómur ad oss bídur so vid þeim, ser-
„ deiles þar ver etum skielpoddur. Hvad

„ hafa þeir Fronſku, ſem eta poddur eins
„ og Amerikanar ad brigdſla þeim Bra-
„ ſilianſku þó þeir ete túdſur heldurenn
„ kiøt af landdýrum. Þá ver hrækium
„ epter Hottentotturum afþví þeir eta
„ lýs, þá hrækia þeir eins epter oſſ þá
„ þeir ſiá ad ver etum hreiſturlavſa fiſka.
„ Ulded villedýrakiøt þiker morgum af
„ oſſ gódur matur. Jakútanna argiß
„ hlýtr ad vera eins þægeleg fæda; þeir
„ ýlda nefnelega ſinn fiſk med því móte
„ ad þeir kaſta honum í eina ſtóra grøf
„ og byrgia aptr med iord, og taka ſo
„ þaraf ſmámſaman til matar og geta
„ ſig ekkert ad ýldulyktinne. Þad fólk
„ brúkar þær ſaklavſuſtu og nytſamlegu-
„ ſtu kræſíngar, ſem uppetr ſínar egen
„ landplágur. Eg meina Partha, Æt-
„ hiopa og Araba, ſem eta ſínar gras-
„ hoppur. Þær eru hiá þeim yferburda
„ ſtórar; og þegar þær draga frá einum
„ ſtad til annars formyrkva þær loptid
„ med ſinne ótrúanlegu mergd og ſtærd.
„ Fólkid ſkelfr af þeirra vængia nid, ſem
„ heýrez miked lángt frá og þeſſe her
„ hylr ſtundum 7. edur 8. mílur lands-

„ vid-

„ vídáttu, hvar hann í botn og grunn
„ eydeleggur oll tre og alla kardar áver-
„ te. Innbyggiararner yfergefa þad
„ landspláts þar sem þesser gester stad-
„ næmaz og flÿa fyrer þessare himinsins
„ hegnande magt. Annars er þad sú
„ einasta hefnd, sem þeir kunna ad fá
„ yfer þessum dÿrum ad þeir uppeta so
„ miked af þeim, sem þeirra mage getr
„ fortært. Hvor sá sem reiser í Egyp-
„ talande, Arabia edr Syria, og þigger
„ eina máltíd matar hiá Arabiskum, skal
„ víst á þeim tíma þá grashoppur fáz
„ medal annarra retta fá eitt fat med
„ steiktar grashoppur. Menn halda þær
„ þægelegann og lángtfrá ecke væmeleg-
„ ann mat. Þær eru og med odru mó-
„ te tilreiddar. Þær eru med reik rek-
„ nar frá skógar triánum, so þær detta
„ nidur; sídan eru þær saltadar og þur-
„ kadar annadhvort vid sól edr í ofne
„ og so má geyma þær árid um kríng.
„ Sá heilage Johannes skírare át þær
„ med ville hunáng; þannveg var þad
„ veslíngs fólk vant á þeim tímum. (I þeir-
„ re íslendsku bibliu eru þær kalladar ein-

„ ge-

„ gesprettur.) Menn láta oft miked
„ undarlega yfer margre godre og skin-
„ samre sidveniu hiá ödrum þiódum,
„ menn háda og fordæma allt þad sem
„ þeir eru ei vaner vid ad siá. Þá ver
„ athugum þann mat sem margar ville-
„ þioder eta, so skulu ver þo finna hiá
„ þvi sidada fólke alltid nockud þad, sem
„ kann ad likiaz vid hitt. Og so gengur
„ hvorutveggia fólk móte ödru med sin
„ föt og sina potta, og háda og spotta
„ hvort annad. Þannveg eru vorrar
„ skinsemes dómar áfigkomner nær sand-
„ sarner edr og sidveniur eru dómarar."
Eg forbliv o. s. f.

S. Edax.

Þó menn nú vili kalla þetta heimsku og villulærdóm, sem mörgum er tidt, hvorium eckert þiker rett utan þeirra egen grillur, so er þó her af avdsed ad hiá ödrum hvorium, annadhvört þeim sem eta hrossakiot, eda hinum sem halda ser þar frá eru innbirlingar og hleypedómar einasta orsök þartil; eda hvor kann ad segia ad hann sem fordæmer hrossakiots

át

át hafe rettara fyrer ser heldrenn hinn, sem etur hrossaslátr. J Jótlande í Danmørk kasta bændurner kiotinu af þeim kálfum sem þeir slátra fyrer hundana. J Kavpenhavn er kálfskiot í mesta afhalde og dýrara heldrenn annad kiot, og so þiker oss her í lande kálfskiot vera lostætr matr. Siáum her hvad vaninn og hleypedómarner giora. Athugum siálfa oss. Flestum af oss þiker velordenn hákall hnossgiæte, og þó hofum ver fráſogu um þad ad einn útlendskr skipbrotsmadr datt nidr davdr þá hann feck ad víta ad hann hafde óvitande eted hákall, sem hann ætlade munde vered hafa spegelax. Og menn vita þess mørg dæme ad þá folk í biargrædes skorte hefur eted sífeldt nýhann hákall er þok hættara vid ad verda brádqvatt enn annars. Háfinn eta menn her ecke, sem er þó samkynia vid hákallinn, og hámúsin er haldin óæt þó hún se af sama kyne. Enn í Norege er sagt ad þeir búe so háfinn til ad hann gánge til iafns vid spegelax. Um selinn vil eg ei tala. Utlendskum þiker hann oætur og vinnufolk her vestra vill valla smacka hañ; enn

enn nordlíngar og fátæker menn her eta hann og þrífaz vel á honum og eru allt eins vel ef ei betre ílits og hiner matvendíngarner. Og so se eg ei neitt á þeim, sem í hardindunum átu hrossakiot. Enn þad er ei fædunnar skuld þó einhvor brúke hana í óhófe, og þad fylger ei heldr hrossakiote heldrenn ødru kiote, sem mēn vita ad margur hefur í óhófe brúkad. Enn þetta skilz ei øllum. Enn eg vil her vidbæta því sem einn af vorum gódu geistlegu, madr epter mínum dóme hálærdr, Prófastur Síra Þorsteinn Petrs son herum hefur skrifad í sinne **underviisun um sagnalestr.** §. 43; „Um „ hrossakiots át vil eg ei tala, seger „ hann, því þad er eingen synd í siálfu „ ser, og herum vil eg brúka Postulans „ ord: **Hvor sem ecke etr dæme „ ei þann sem etr, þvi Gud „ hefr medteked hann.** Item **Eg „ veit og er viss um i Drott- „ ne Jesu, ad eckert er ohreint „ i siálfu ser,** heldur eru þetta pá- „ va løg.“ Og aptur í §. 64. hvar hann talar ennnú skírara um hrossakiots

át,

át, seger hann: „ Þá þetta [hrossa=
„ kiots átid] byriadez fyrst í minne tíd
„ kom mer þad undarlega; enn nú síd=
„ an eg hefe nockud betr ígrundad þetta
„ efne, se eg, ad þad eru eingen christ=
„ ne spioll og ecke nema pávasetníngar.
„ Páll einn kenner þetta nogu vel allví=
„ da: **Eingen skal dæma ydur í**
„ **mat ne dryck** seger han. Item
„ **Aller hluter leyfaz mer.** Hañ
„ talar þad um matnadinn. Eg hefer
„ annarstadar her um fleira skrifad og læt
„ þad vera endíng míns máls her í stad
„ ad drepa á þad hvorsu vorer landsmeñ
„ í fyrndinne hagnyttu ser alla hlute til
„ uppeldes, sem ver viljum nú ei nýta
„ allt til þess húngrid kann ad giora
„ enn meira ad verkum, enn komed er."
Siáum her einn fágiætann gamlann mañ
og gudhræddann, sem ei lætur sig villa
af gomlum vana edr hleypedómum. Eí
þad er satt, hann er vellærdur og því
ratar hann fram úr þeim gomlu villeveg=
um. = = = Eingenn þenke, ad þó eg
þetta skrifé, ad eg ráde til ad eta hrossa=
kiot. Eg má medkenna ad á medan eg
var

var ad skrifa ádur innfært bref lá mer vid ad fá sumstadar velgiu af því sem eg skrifade, hvar af eg blygdadez, þá eg fann hvörsu rikt herradæme vane og hleypedómar hofdu yfer mer. Eg ræd þó ei til ad eta hrossakiot ad navdsynialavsu. Enn þad er spursmál hvört ei má nýta hross til sláturs án þess ad eta þav. Eg hefe talad vid forstanduga bændur sem segia ad af einum feitum heste slátrudum ad havstinu mege fá, þá slátrid se rett medhondlad 100 til 120 pund flots. Enn eg vil setia ein 80 pund; og þavg eru alltíd eins góð og 40 pottar lýses. Og þetta flot giorer þó ætíd minne liósreik en lýsid; þetta munu aller þeir sanna, sem hafa reynt ad brenna hvalsmiore sem er alltídt nordanlands. Nú vil eg geta mer til hvad Island giæte unned med því ad brenna hrossaflote. I Dala sýslu eru 260 bændur; eg vil láta, sem hvoreinn brenne 40 pottum lýses um vetrinn, sumer meira, sumer minna; so verda þad þó fyrer Dala sýslu 80 tunnur lýses. Þá eg nú reikna Múla sýslu þrisvar og Skaptafells sýslu tvisvar

svar so stóra, sem Dala sýslu; so vil eg setia fyrer allt Island 1600 tunnur lýses. Og ad þetta er heldur oflíted enn ofmiked leidez eg til ad trúa, þá eg athuga ad Dala sýsla er ein af þeim minstu og ad vída er brent avk lýsesins savdatólk. Þá menn nú reikna 1. tunna lýses fyrer 4. rdr. so verda þad 6400 rdr. sem Island giæte grædt vid þad ad brenna hestaflote. Og mynde þad ei betra ad hiálpa sér vid hestaflot heldurenn sitia í myrkrinu, sem margur búande verdr oft ad giøra.

Sídan eg skrifade fyrst þetta um Hrossa-Slátr og þad var á prent útgenged hefer eg þarum heyrt ymsra manna ymislegar meiníngar: minst af þvi er þó af mínum toga spunned heldr útlagt edr skrifad epter ødrum og hefer eg ei þaurf ad taka þá í forsvar móte þeim sem illa um dæma. Eg hefde getad framleidt meiníngar fleire lærdra manna um ymislegt kiotát, enn vil einasta bæta þvi her vid sem sá stóre Linnæus i Svíaríke hefur þerum sagt i Svenske Videnskabers *Aca-*

demiens Afhandlinger, for Aar 1740 Nr. 11. (elleve) „ Jeg trúe, seger hañ, „ ad eckert ferfætt Qvikende se so eitrad, „ ad þad mege ei etaz, og eru Kínarar, „ sem eta allslags Qvikende, þar uppá „ bevísíng. Jeg þecke Skógar-Lappa „ sem í húngursneyd urdu ad eta þessar „ Mýs (Mus, Norvagicus Wormii) „ þó er þess ad giæta ad vissra dýra kiot „ er heilnæmara til almennelegrar nyt- „ kunar heldurenn annara, sosem eru fyrst, „ jumenta, sídan glires, so armenta „ og seinast feræ. Siá mitt Systema „ Naturæ. og ad Mósis Log i þvi ad velia „ kiot til matar, er grundad á Náttur- „ unne." Aongver af þessum gódu og lærdu maunnum, sem eg hefe umgeted, ráda þó til ad eta nockurt kiot á móte eins fólks viddekinne veniu og, þvi munde þeir þad giora? Þvi þad sem einn etr med vidbiód, jafnvel þó se holl fæda, er honum ohollt, medan sá vidbiódr varer, eñ vaninn og hóffemin geta giort jafnvel óholla fædu ad gódum notum. So var þad ei mín meiníng ne áseníngr ad uppvekia edr áhýsa nockurn til ad eta hrossa-

kiot;

kiot; heldr um leid, ad eg sýnde hvorsu menn giætu hrossaslátr nýtt án þess ad eta þad, ad sýna hvorsu margt af þvi, sem haldet er leyfelegt edr óleyfelegt er þó hvorugt í siálfu ser, og so er þad um hrossaslátr, epter vidtektum og hleypedómum folks er þad óleyfeleg fæda. Enn er þad þá saklaust ad eta hrossaslátr á móte vidtekinne veniu vorre, jafnvel þó sú sama se upprunnen af hleypedómum? Þar uppá vil eg sídar svara.

Einn gódr og hálærdr madr, sem hafde lesed þad, sem í þeim frá Hrappseyiar Prentverke útkomnu **Manada Frettum** er herum skrifad, seger í einu brefe til mín ad „þesse hlutr se vidqvæ„mr bæde ecclesiastice og politice.“ Hann mun þarmed meina ad þvilík skrif kunne ad uppvekia edr áhýsa einhvoria til ad eta hrossakiot, og ef so være þá er þad satt ad hlutrinn er ecclesiastice vidqvæmr. Enn hvor er sá hlutr sem ei verde vanbrúkadr? og skyldu menn ei mega tala og skrifa sannleikann fyrer þvi, ad einhvor kynne ad vanbrúka hann, þá fylg-

de þaraf ad aungvann sannleika mætte tala og skrifa, þvi allann sannleika má vanbrúka, og þess vigtugre sannleikurinn er þvi háskasamlegre er hans vanbrúkun. Vilie nockur halda þad háskalegt ad kenna alþýdu hvad rett edr rángt er í einum hlut, hann hefr pápiska og tyrkneska trú. Pápisker banna bændum ad lesa bibliuna, so þeir lære ei ad þeckia þeirra villulærdoma og Tyrknesker halda almúgans fákunnáttu ómissande til ad halda honum í hlýdne. Þessa vil eg ei til neins góds manns geta. Eingenn er sá sannleike, sem rettbrúkadr ei hafe sína nytseme. Er þad ei gott ad almúge veit ad Arna og Melracka sita er gód til áburdar? Eg heyre ei ad nockur ete þesse dýr þarfyrer. Bændur í nordurlande, sem sýna dugnad og framqvæmd med sínar laxveidar veida ei sídur í lagnetium enn dráttarnetium og hafa þá trú ad ef hrognunum se sád nidr í kríngum lagnetid ad þá veidez betr, og eg trúe ad sumer seu í þeirre meiníng ad laxin ete þesse hrogn. Hvad munde skada þo þeim være undervísad hvorsu ad sá hvate fiskurinn fer ad giora það hrogn frió=

friósom sem blavde fiskurinn gýtr? Eg veit ei hvada ógrynes veide hafa mætte í Fáskrúd, Laxá og Havkadalsá her í Dala sýslu med þessu móte. Hvílík dæme má ótal tilleida. Þad er því stærre synd ad hylia edr hindra þann sannleika hvorsu lítell og avdvirdelegur sem hann er; sem þienar til almennelegrar nytsemdar, heldrenn ad eta hrossakiøt; þvíad hylia og hindra sannleikann er synd í siálfu ser enn ad eta hrossakiøt er eingen synd í siálfu ser. Þad kann því ei ad hafa vered þessa áminsta góda manns meiníng ad óttaz fyrer þessum sannleika sosem skadlegum. Ad Hrossakiøts At se ecclesiastice þad getr mer skilez enn ad þad se politice skadlegt get eg ei skiled. Hvad kynne þad ad skada almenníngs velferd þó hvor einn bónde legde til búis síns á havste hvoriu einn tvo edr fleire feita hesta? Þad være honum allt eins gott og navt og savder. Ad hrossaslátr orsakade vanblessun í búinu er ei svara vert. Ad fólk munde misbrúka þad í óhófe er ádr tilsvarad. Eg hefe þekt þá menn i næstlidnum hardindum sem átu Hrossakiøt og

voru þó hvorke lakare ad davn ne ílite enn þeir sem þad alldrei smeckudu; enn þeir brúkudu þad med hreinlæte og hófseme. Eg hefe þar á móte þeckt þá mēñ sem bæde ad davn og ílitum hafa boded og bióda stórann óþocka af ser fyrer óþrifnadar og ofneytslu saker og hafa þó alldrei eted hrossakiot, og nefnd hefr vered fyrer mer heil sveit á Strondum hvar ad fólk se miög óþockalegt og etr þó ei hrossakiot. Hvorsu sem menn þarfyrer velta þessum hlut fyrer ser getr hann aldrei politice skadlegr orded utan fyrer vanbrúkunina og med vanbrúkuninne geta aller hluter og eins þeir allra bestu orded skadleger. Nú munu þeir finnaz sem kalla hrossaslátr óleyfelegt til navtnar fyrer þvi ad þad se, forboded í Guds logum. Þetta er so, þvi þó hross seu þar ei á nafn nefnd þá eru þav þó á medal þeirra dýra sem þar eru óhrein kollud. Enn ad þetta hafe vered eitt Ceremoniu logmál má siá af þeirre álykfun sem Postularner giordu á þeirre fyrstu Presta-stefnu í Jerusalem. Þar bounudu þeir avngvann mat ad eta utan godafórner og kafnad og blód, edr hvad

hvad var þad sem Gud sagde vid Petr Act. 10, 15. Hvad er þad sem Gud bavd sínu fólke Devt. 14, 21. Alldrei hefer eg enn nú heyrt Presta áminna sitt sóknarfólk um ad lára kálfinn verda þrínættann ádr enn hann er skorenn.

Heyrt hefer eg þá sem segia ad af hrossa átinu munde orsakaz hrossa þiófnadr: enn þvi skylde heldr orsakaz hrossa þiófnadr af hrossa átinu heldrenn savda þiófnadr af savda átinu? til savda þiófnadar hafa menn ei heyrt sídan hardindunum linnte og er þad víst merke til ad sá þiófnadr hefr meir komed af navd enn vondsku; enda er þad undarlegt ad geta so ills til manneskiunnar ad ravnarlavsu. Eg visse þá, sem spádu óþverrande hórdómum og frillulífes syndum þegar sektirnar voru her eptergefnar; enn reynslan sýnde ad þad ár komu ei fleire børn under heldrenn ádr edr sídan. Sama er um aflavsner, sídan þær voru afteknar hafa ei fleire ef ei færre ad lavslæte openberer ordner her í sýslu, og barneigner í þeim til forna forbodnu enn nú leyfdu

 lidum

lidum hafa sidan ei fleire vered. Allt er þetta orded. Hvert á móte þvi sem menn tilgátu: og eg er hræddr um ad soddan ravnalávsar tilgátur kome hiá sumum af kiærleiksleyse og óskinsamlegre vandlætingu, edr og drottnunar girnd, sem vill svifta manneskiuna saklavsu frelse og halda heñe i óþarfre ánavd. Manneskiann er af nátturunne nógu vond þó ei se verr til hennar geted enn hún reynez edur henne þyngra ok uppálagt enn hún þarf navdsynlega ad bera. Act. 15, 10. Þad er undarleg og alltof almenn Trú ad lester vaxe fyrer þad litlar og vægdarsamar hirtíngar og álogur seu brúkadar og ad eckert se betra medal vid vaxande lostum enn ad herda straffed. Es. 1, 5. þar þó reynslan sýner ad of hardar hirtíngar hafa ei sidr skadlegar verkaner heldrenn of litlar. J refsíngum verdr og ad gánga medalveginn og alltid leyfa manneskiunne so miked frelse, sem mest má, og alltid ad láta þann mannlega frívilia hafa valid.

Enn so eg villez ei oflángt frá efninu so vil eg koma aptr til Hrossakiøts

Atsins. Eingen held eg um þad tale þó ad fólk í húngurs navd lenge líf sitt med hrossakiøts átinu: í slíku ásigkomulage brýtr navdsyn løg iafnvel ad þeir væru nockrer, sem í seinustu hardindum vildu á avngvar navdsyniar líta þó fólkid dæe nidur í húngre og hallære. Ætla eg nú se til fulls sýnt og med órekande bevísíngum stadfest ad þad se ei einasta leyfelegt og skyldt ad undervísa fólke í sannleikanum hvorsu lítelfiørlegr sem hann er, þegar hann má ad gagne koma; heldr og ad Hrossakiøts At se í siálfu ser saklavst. Hefde almenníngr haft þessa trú í áminstum hardindum hefdu færre í húngre dáed. Þvi þeir voru marger sem voru horfallner og ad davda komner í húngre og áttu þó hesta sem þeir af einfeldne og almenníngs hleypedómum heldu óleyfelegt ad eta. Þetta er ávoxtur einfeldní þeirrar sem orsakaz af undervísunarleyse og fyrer þvi ad sannleikurinn er dulenn fyrer almúganum.

Nú er þetta so, ad Hrossakiøts At er saklavst í siálfu ser; já menn eru

skylduger ad eta heldr hrossakiot heldrenn stofna ser og sínum í dauda í húngurs nauð? Enn er þá Hrossakiots át lastlaust og leyfelegt ad naudsynialausu og hvornen sem ástendr. Eg sege nei, það er ecke leyfelegt ad eta Hrossakiot þegar húngurs neyd og almenneleg hardinde knýia þar ecke til. Eg fordæme allar þær hrossætur sem leggia það kiot ser til fædu utan í þessu einu tilfelle. Þetta má nú morgum undarlegt þikia ad dæma hárt um þann mann, sem giører leyfelegann hlut; enn það er ei undarlegt þá ver athugum almeníngs dóma. Almenníngr dæmer illa um hrossætur; látum so vera ad þesse almúgans dómr se rángr; so á þó ei ad gefa almúganum orsök til ad dæma illa edr ránglega og sá það giører hann gefr hneigsle af ser og giører stóra synd og sær sem so syndgar imoote sinum broodr og slær hanns breiska samvitsku hann syndgar amoote Christo 1. Cor 8, 12. Enn oll þesse ræda um Hrossakiots át er þarflaus í þessum stad; þvi hvorke þeir lærdu og vitru menn, sem eg hefe tilleidt

ad

ad framanverdu og ei heldr eg hefe ráded til ad eta hrossakiot, þó eg hafe halded gott ad slátra Hrossum til ad taka af þeim liósmat. Og þad held eg eingen mune fordæma, utan sá, sem getr of illa til annarra ad þeir mune þarfyrer eta hross, þó þeir brúke þav til lióſa og hefer eg ádr talad um þvílíkar tilgátr: þær rætaz skialdnar enn menn ætla, sem betr fer.

Enn útaf þessu kemr mer í hug hvorsu onugleger og óbilgiarner almenings dómar eru, sem fordæma Hrossæturnar enn hafa í heidre Jardanídslúnga, látum nú Jardanídíngin̄ Olaf tala vid Hrossætuna Haldór, og siá hvornen þeim segez.

Ol. Mikel skømm er ad þer Halldór þú etur hrossakiøtid og venr børnin þín á skømmina med þer. Hall. Þá skømm á eg þer ad þacka: hefder þú ei so nídt og svívirdt iørdina sem eg tók epter þig, ad avngvum manne er sídan á henne líft, þá þyrfte eg nú ecke ad sedia húngr mitt og barnanna

na á hrossakiøtinu. Ol. Pad er skømm ad þer! þú einn í sveitinne hefr þessa fúlmennsku hiá þvi sem aller adrer. Hall. Pad varer ecke lenge ef þú sitr uppe, ad eg verd einn á bande. Þess fleire jarder sem þú nidr-nider, þess fleire fara ad eta hrossa-kiøtid. Ol. Þú seger ósatt á mig Halldór, eg hefe avngva iørd nidt; eg hefe seted þær eins og adrer. Hall. Pad er nú ravnin ólignastr vottr hvørsu vel þú hefr seted þær: eg veit um þá sem eg tók vid epter þig. Epter allra søgn hafde hann Are, sem þar bió fyrer þig, 7. kyr og þær þó vel fódradar á tødu, nú verda þar navmlega hafdar 4. Þá vard þar á fiárhúsa túninu, fiós túngunne og fimavra vellinum valla skiled mille flecka, nú er þad valla liáberande orded. Ol. Þú ert sá fyrste sem hefr brugded mer um ómennskuna, enda er ei von ad þú sert rádvandare í hvi, ad ad þú lygr á mig, enn í þvi ad eta hrossakiøted. Hall. Eg lyg avngvu á þig, her er þeigiande hlutrinn sem lygr sist: eg kalla þig ei letingia edr ómensku mann, eg kalla þig iardaníding. Frá þvi þú komz heim á

havst-

havstinn frá havstródrunum giørder þú klíning úr mest allre vetrar mykiunne, þvi þú brúkader ei annann eldevid. Hitt sem ei var giørdur klíngr úr tinder þú á túnid einhvørnvegenn og kastader þvi ofan á mille þúfnanna sudur í þúfna vellinum, þvi klíninginn giørder þú á þvi af túninu sem nær þer var. Þar láu hløssin ómokud úr þartil þú til stóar fórst í midiann Einmánud. Helga átte á ad vinna. Aldrei vard neitt tækt á túninu, þvi þad sem ofaná hløssunum var vard ofhart og þvi var iafnótt brent under blavta fiskenn sem þú sender heim úr Biarneyunum, enn þad sem under var í hlassastødunum vard ei tækt fyrrenn brunned var under þvi, þá var þad bared, og þad sem ei vard bared þvi var troded ofaní grisiurnar, enn hinu var avsed um þúfurnar. Sídan þá hreinsad var, voru aller stærre køglarner saman rakader og borner í havga og lagdr eldr í, hitt þad smærra fór mest allt í heyid þá sleiged var, enn túnid hafde líted gagn af. Þegar þú koms heim úr Biarneyiunum um Maríumessu var ei tíminn lengre til sláttar enn

þer dugde til ad giøra til kola og rísta heytorfid. Ecke hlódt þú einn veggiar spotta ecke tyrfder þú neinn kofann, vidrinn og raptarner sem þú ecke brennder fúnudu af leka, so nú er ei líft fyrer kulda og mannvært fyrer leka inní kofaskommunum epter þig. Þú hafder mósskurdinn nógann og gódann strax fyrer utan túnid og skóginn fyrer framann túnid, og þó brender þú øllum áburdinum. Strax sem sláttr var búinn fórt þú fram ad sió og vart þat framunder Jólaføstu, og vaken og sofenn vart þú í siónum þegar þú vart ei vid sláttinn og um hávetrinn, og þer veitte þó alldrei af. Eg veit ad aller hafa kallad þig mesta biargrædes mann, enn á þeim þremur árum, sem þú vart á iordunne nídder þú hana so nidur med þessu móte ad mer med børnunum er þar nú ei líft, og allt eins verdr um iørdina sem þú nú byr á. Ol. Þer segez þó, og þad er ei til orda takande um þig sem, etr so miked af skømminne, þó þú hafer nóga skømmina til ad æla uppúr þer. Hall. Eg vil heldr mer verde þad ad eta Skømmina sem þú so kallar heldrenn

ad

ad nída nidr ábyles iørdina mína. Ol. Giøre Gud vid mig þad hann vill, eg vil heldr hiälpa mer med ærlegu móte og vera vakenn og sofenn í síónum, sem þú seger, heldrenn ad líkiaz þer í ósómanum; hafe eg þá skort, þá hefe eg þó góda samvitsku. Hall. Þad má vera undarleg samvitska. Þú ert búenn ad tína nidr spurníngunum. Þegar þú nider iørdina þaa tekr þw næringuna fraa þínum naawnga ertu þá ei sekur í hans navd og davda ef tilvill og allra þeirra, sem hann á fram ad færa. Ol. Hefer eg þá ei rætkad mína iørd eins og adrer rækta sínar? segdu þad ef þú þorer. Hall. Já, være Hrossakiøts át orded eins alment eins og iardanídsla er orden almenn, þá smánader þú mig ei eins og þú giører. Gerdu hvør þarna gengr, berdu þig saman vid hann. Ol Eg get ei þackad hønum Eiólfe þó hann hirde um iørdina sína, sem alldrei fer ad síónum. Hall. Hann hefr þó fleire ómaga og lakare iørd og lifer þó betr enn þú. Ol. Hvad á eg ad láta í kavpstadinn ef eg ræ ecke? Hall. Hvad áttu ad gefa fyrer Tób-

ak

ak og brenneviin ef þu rær ecke? Ol. Þu lætr eina skømmina reka aðra, enn þo er það litelsverdt þo þu brigðsler mer, þu skammaz þin ei að því sem verra er; þu skammaz þin ei að því að eta Hrossakiøtið. Hall. Hvað syndga eg i því þo eg ete Hrossakiøtið? Ol. Hvað syndgar þu? hneigslar þu ei alla i sveitinne? "Vei þeim manne fyrer hvørn að hneigslið „kemr." Hall. Ef hlutrinn er saklavs þa er það þer vest ef þu hneigslaz a hønum. Haf þu þina samvitsku fyrer þig; eðr mant þu ei hvað Prestrinn sagðe i giær, þegar hann var að tala um hneigslið. „Hvar fyrer dæ„mez mitt frelse af annars „samvitsku." Mig minner hann hefðe það epter hønum Pale. Ol. Ecke þiker mer vert fyrer þig Halldoor

að

ad vitna til Prestsins, þvi þad eru ei einasta aller bændurner i sveitinne sem hafa vidbiood aa þer, heldr bæde Prestr og Syslumadr. Hall. Þeir skyldu þaa ei siia myfluguna enn svelgia ulfaldann; þeir munu vel rækta iardirnar sem þeir bwa aa! Enn þad veit eg, ad hefdu þeir halded þer til ad þriisa ærlega iørdina sem eg took epter þig, þaa hefde eg ei neydz til ad lengia liif mitt og barnanna aa hrossakiotinu. ——

Meira af þessu samtale er ei verdt epter ad hafa, þvi úr þvi vard fullkomen deila: Olafr var illyrdur enn Halldór beryrdr. Enn hvor vill nú skera úr málunum á millum hañs Olafs og hanns Halldórs. Þad á Lesarinn ad giora. Olafr og Halldór eru her i ó hæfer dómarar; þvi blindr er hvor i siálfs síns sok. Enn lesaranum til fyrergreidslu og dómnum til underbú-

 níngs

nings vil eg ktreka og upptelia þav hof-
uð atriðe á báðar síður sem um er að
dæma.

Halldór etr Hrossakiøt, þar á
hneigslaz Sveitarmenn; einn eðr tveir af
þeim avmustu taka það upp epter hon-
um, hiner sem navðin þrýster minna að,
dæma illa um þessar hrossætur, sumer
álasa þeim og vanvirða, aðrer gabba
þá og háða, enn aller dæma illa um.

Olafr níðer niðr ábýles Jørð sína.
Eingenn fæz til að taka hana epter hañ
utan einhvor avmínginn eðr frumbýlíng-
rinn. Af því að túnið er komeð í því-
líka órækt þá brestr hann töðuna og þar
á epter miólkina. Kannske hann þar-
fyrer neydez til að eta Hrossakiøtið.
Børnin alaz upp við sullt og alldrei
kemr dugr í þav. Húsbóndinn fær ei
landskuldina. Ef avmíngianum eru ei
lagðar tíunder af sveitinne, þá getur
hann þó avngvann Sveitarstirk giørt
og valla goldeð tíund sína. Prestr og
Kyrkia tapa að nockru eðr øllu sínum
tekium hiá honum, Kóngurinn sínum.

Eckert

Eckert getr hann í kaupstadinn láted. Avmínginn fer á húsgáng og deyr af atvinnuleyse, enn börnen uppá Sveitina ef til vill. Edr er þetta ei þreifanlegr ávoxtr af þvi þegar tedufallinu fer árlega aptr fyrer vanræktar saker? ——

Nú má Lesarinn dæma hvor þeirra hann Halldór edur hann Olafr se skadlegre Sveitar, Sóknar, Sýslu og Födurlands limur, og ónýtare Kóngsins undersáte.

Aller fordæma Halldoor.
Þad er vel.
Þvi kemz hann Olafr, betr af?

*Qvi convenit in minore negotio legem timere, cum eam in majore neglexeris?*

Cæsar apud Saluſtium.



O felicem me! qvæ viro nupta ſum, qvi non adulatur.

*TYPOGRAPHIA.*

